# Rauður vettvangur

Frá lesendum

## Valdníðsla

Því er ekki fyrir að fara, að verkalýðurinn sé eina kúgaða stéttin hér á landi. Aðrir þjóðfélagshópar eiga við kreppt kjör að búa og verða einnig að líða órétt. Mín saga er dæmi um það. Ég er barnakennari úti á landi, og er aðkomumaður. Það óréttlæti, sem ég hef verið beittur frá því ég kom á þennan stað, hefur opnað augu mín fyrir því að handhafar valdsins svífast einskis, þegar um lítilmagnan er að ræða. Ég ákvað í haust að sækja um kennarastöðu á þessum tiltekna stað. Ég taldi víst, að mér yrðu veitt sömu kjör og tíðkast hefur meðal aðkominna kennara annars staðar á landsbyggðinni. Þessvegna æskti ég aðeins, að mér yrði séð fyrir húsnæði og fæði, en láðist að taka fram hver hlutur þeirra yrði ef um kostnaðarmikið uppihald yrði að ræða. Strax annan daginn hér var mér réttur reikningur, sem hljóðaði upp á 18 þús kr. af 44 þús. mánaðarlaunum mínum (að undanskilinni láglaunauppbóta Geirs hins fríða). Ég hef gengið á milli Pílatusar og Heródesar, en aðeins hlotið sömu útreið og Kristur forðum. Augljóst er, að okkar ástkæra lýðræðisríki býður uppá valdníðslu hrokafullra embættismanna og yfirstéttarvalds. Þess má geta, að höfuðpaurinn er einn af forkólfum Framsóknarflokksins. Reynsla mín af framangreindu hefur sýnt mér, að kennarar eru kúgaður hópur og á fulla samleið með stéttarbaráttu verkamanna. Ég vil benda kennurum, hvar sem er á landinu, að það, að búast má við stórauknum kjaraskerðingum á næstunni. Þannig hef ég frétt, að fella eigi niður allar staðaruppbætur, sem þýðir að þrengt yrði mjög að kjörum kennara. Reynsla mín og dómgreind hafa kennt mér, að einasta leiðin til að brjóta helsi þetta er að taka upp öfluga pólitíska baráttu við hlið verkalýðsins og kollvarpa auðvaldsskipulaginu. Með það fyrir augum hyggst ég taka þátt í námshring K.S.M.L. og vona jafnframt að sem flestir fylgi því fordæmi.

Með baráttukveðju til Stéttabaráttunnar

K.V.M.

## Skiptir hann oftar um skoðun en sokka ?

Nýlega rakst ég á eftirfarandi ummæli eftir Jónatan Þórmundsson, prófessor:

"Ég var nú lengi þeirrar skoðunar, að herliðið ætti að vera hér, en við tilkomu hinna nýju vopna, eldflauga og vetnissprengja hafa viðhorfin breyst. Ég tel því enga vernd í hernum eins og nú er komið." (Dagfari, málgagn Hernámsandstæðinga, bls. 24, 1. des. ´61)

Þessi sami Jónatan er einn af forgöngumönnum "Varins lands" og aðili að málsókninni gegn m.a. blaðamönnum Þjóðviljans. Mér finnst þetta kostuleg heljarstökk - því að "varið land" áróðurinn gengur einmitt út á það, að herinn eigi að vera hér til að "verja landið". Hefur Jónatan breytt um skoðun á eldflaugum og vetnissprengjum, eða er hann bara dæmigerður Framsóknarmaður ?

-/Finnur

## Trúboð

Ég sá það í sjónvarpinu um daginn, að Aðventistar og fleiri kristnir trúflokkar kúgi indíána í Suður-Ameríku. Þar var sagt frá trúflokki sem heitir sjöunda dags aðventistar, sem rekur einhverja trúboðsstarfsemi meðal indíána við Amazon fljótið í Brazilíu og kúguðu þeir fólkið sem bjó þarna til að sækja trúboðssamkomur, bönnuðu því að éta svínakjöt og fisk sem þó er aðalfæða indíánanna. Í myndinni var sagt að indíánarnir hefðu fengið skortsjúkdóma vegna þess, að þeir fengu ekki eggjahvítuefni úr svínakjötinu og fiskinu og aðventistarnir veittu þeim enga hjúkrun.

Einnig var sagt frá öðrum trúflokki, sem seldi indíánum lyf og þar sem þeir áttu enga peninga, stóðu lyfin óhreyfð, en fjöldinn allur af þorpsbúum var með alvarlega og langvarandi sjúkdóma, sem hægt hefði verið að lækna með lyfjunum.

Mér finnst að svona lagað eigi að birta, og banna að trúarhópar séu að kúga fátæklinga til hlýðni og undirgefni, með því að veita þeim læknisaðstoð gegn gjaldi. Sjónvarpið sýnir alltof sjaldan þessa hlið kirkjunnar en þess í stað fá einhverjir prestar að vaða uppi með trúaráróður á hverjum einasta sunnudegi.

Gagnfræðaskólanemi.

## At your service...

Alþýðubandalagið segist berjast gegn herstöðinni á Keflavíkurflugvelli og hefur gert það mál að aðalbaráttumáli sínu í Alþingiskosningum. En svo þegar Alþýðubandalagið er komið í ríkisstjórn hefur það ekki gert alvöru úr því að reka herinn burt, þrátt fyrir kosningaloforðin.

Þó keyrir um þverbak, þegar Þjóðviljinn lýsir því yfir, að prentsmiðja hans sé reiðubúin að prenta áróður fyrir bandarísku upplýsingaþjónustuna, aðeins ef hún borgar samkvæmt taxta!

Eftirfarandi klausa birtist í Þjóðviljanum 3. desember í grein þar sem Þjóðviljamenn eru að reyna að dylja, að þeir hafi samband við rússana.

> **Meira að segja væri fyllilega hugsanlegt að Prentsmiðja Þjóðviljans tæki að sér prentun Morgunblaðsins eða öfugt og sameiginlega reka 4 dagblöð eina prentsmiðju. Þess vegna væri líka Upplýsingaþjónusta Bandaríkjanna velkomin í viðskipti við Prentsmiðju Þjóðviljans upp á gjaldskrá Félags ísl. prentsmiðjueigenda, eins og**

Reiður vinstrimaður.



# Stalín-vinur kínverskrar alþýðu

Við birtum hér grein eftir Maó Tsetung formann um hinn mikla leiðtoga sovéskrar alþýðu, Jósef Stalín. Ástæðurnar eru tvennar, annars vegar eru 21. þessa mánaðar 95 ár liðin frá fæðingu hans, og hins vegar er greinin hið sterkasta andsvar við öllum árásum og óhróðri borgaralegra áróðursmanna um foringja Bolsévíkanna.
Öllum marxistum-lenínistum er það skylt að standa með Stalín og verkum hans, ekki síst nú, þegar á íslenskum verkalýð dynja úr útvarpinu hinar svokölluðu endurminningar Krúsjofs.
Við tökum fyllilega undir með Maó, er hann segir: "Ást og virðing kínverskrar alþýðu fyrir Stalín... á sér djúpar rætur, og engin tilraun til að spilla þar um, engin lýgi, og ekkert baktal getur breytt því."

Þann 21. desember verður félagi Stalín 60 ára. Þessi afmælisdagur vekur hjá öllum byltingarsinnum hvar sem er í heiminum hinar sönnustu og heilustu heillaóskir.
Að hylla Stalín er ekkert formsatriði. Að hylla Stalín þýðir að standa með honum, standa með verkum hans, fyrir sigri sósíalismans, fyrir þeirri leið, sem hann hefur sýnt mannkyninu, það er yfirlýsing um einlæga vináttu. Því langstærsti hluti mannkynsins líður skort og getur aðeins losað sig undan þeirri áþján með því að fylgja leið Stalíns og með hans hjálp.
Hin kínverska alþýða er nú á leið sinni í gegnum mestu þrengingar sögunnar og hefur meira en nokkru sinni þörf fyrir hjálp annarra. Í "bók Odernes" er þetta nefnt "fuglinn kallar á rödd vinar." Þetta eru þær aðstæður sem við erum í.

Hverjir eru vinir okkar ?

Til eru svokallaðir vinir, fólk sem segist vera vinir kínverskrar alþýðu og sem sumir Kínverjar skoða hugsunarlaust sem vini sína. En þannig vinir hljóta að vera svipaðir Li Linfu, sem var forsætisráðherra á tímum Tang-keisaranna, sem sagt var um "að hefði hunang í munninum en rýting falinn í erminni." Þannig eru raunverulega þessir "vinir," þeir hafa "hunang í munninum en rýting falinn í erminni." Og hverjir eru þeir ? Það eru heimsvaldasinnarnir, sem þykjast hafa samúð með Kína.

Það eru einnig til vinir, allt öðru vísi vinir, vinir, sem sannarlega sýna okkur stuðning, og líta á okkur sem bræður sína. Hverjir eru þeir ? Það er sovésk alþýða og Stalín.

Ekkert annað ríki hefur afsalað sér hagsmunum sínum í Kína. Það hafa aðeins Sovétríkin gert.

Í okkar fyrstu stóru byltingu, þegar allir heimsvaldasinnarnir voru á móti okkur, voru það aðeins Sovétríkin ein, sem hjálpuðu okkur.

Síðan varnarstríðið gegn innrás Japana hófst, hefur engin heimsvaldasinnuð ríkisstjórn stutt okkur. Aðeins Sovétríkin hafa veitt okkur aðstoð jafnt í lofti sem á láði.

Er þetta ekki nógu ljóst ?

Aðeins land sósíalismans, leiðtogar þess og alþýða, sósíalískir hugsuðir þess, ráðamenn og verkafólk, aðeins þeir geta veitt kínversku þjóðinni sannan stuðning í frelsisbaráttunni, sem og í öðrum málum. Án hjálpar þess getum við ekki unnið endanlegan sigur.

Stalín er hinn einlægi vinur kínverskrar alþýðu og berst fyrir frelsun hennar. Ást og virðing kínverskrar alþýðu fyrir Stalín og vinarþel hennar til Sovétríkjanna á sér djúpar rætur, og engin tilraun til að spilla þar um, engin lýgi, og ekkert baktal getur breytt því.

-/mþ þýddi

# Sáuð þið í sjónvarpinu

Kreppan er hugarfarsleg og verðbólgan siðspillandi.

Í sjónvarpsþættinum Kastljós á föstudagskvöldið 6/12 var kreppan til umræðu. Þráinn Eggertsson hagfræðingur og Helgi Bergs bankastjóri sátu fyrir svörum og afhjúpuðu fullkomið skilningsleysi sitt á orsökum þeirrar kreppu sem haldið hefur innreið sína í auðvaldsheiminn. Frá sjónarhóli borgaralegu hagfræðinnar er kreppan eitthvað óskiljanlegt, einhver mistök í fjárfestingu eða jafnvel eitthvert andlegt fyrirbæri! Það hvarflar ekki að fulltrúum hennar, að orsökin fyrir kreppunni liggi í kapitalismanum sjálfum, sé óhjákvæmilegur fylgifiskur hans og ævarandi áþján fyrir verkalýðinn, svo lengi sem einkaeignin á framleiðslutækjunum er við lýði.

Helgi Bergs: "Kreppan er hugarfarsleg..."

Bankastjórinn hélt sig við útúrsnúningana, þegar spyrjandinn vildi vita orsakir kreppunnar. Viðurkenndi hann með semingi, að flestum myndi vefjast tunga um tönn, þegar svara skyldi slíkri spurningu. Hann tíndi þó fram lágkúruna, sem jafnvel blaðasnápar borgarapressunnar hafa margtuggið, að olían væri orsökin. Þegar spyrjandi benti réttilega á, að olían væri aðeins brot af heildarframleiðslunni og að leita þyrfti orsakanna fyrir verðhækkunum á olíu líka, vafðist Helga sjálfum svo tunga um tönn, að hann leit út eins og drukknandi maður sem kraflar í brothætta vök, þegar hann henti á lofti skýringu spyrjandans sjálfs - nefnilega að kreppan væri hugarfarsleg!
Tilraunir hans sjálfs til að kenna vanráðnum og óhugsuðum fjárfestingum auðmanna um kreppuna, enduðu í slíkum ógöngum, að augljóst var hverjum sem á horfði að bankastjórinn hafði ekki hundsvit á því fyrirbrigði. Vilmundur Gylfason sá í hendi sér að kreppan væri fyrst og fremst í erlendum mörkuðum og sem slík innflutt fyrirbrigði.

Engan þessara spekinga renndi grun í hina raunverulegu orsök, alla vega voru þeir ófúsir að viðurkenna að það hafi svo verið. Kreppan er nefnilega afleiðing af ósættanlegum andstæðum sem felast í sjálfri auðvaldsframleiðslunni. Þegar framleiðslan stjórnast af taumlausri gróðaleit hvers auðjöfurs um sig, er auðsætt að heildarframleiðslan einkennist af innbyrðis baráttu þessara auðjöfra, samkeppni þeirra og samvinnu um að halda verðlaginu háu og laununum samtímis eins lágum og þeim er unnt. Þessi andstæða - að framleiða eins mikið og hægt er og reyna að selja það eins dýrt og framast er unnt, samtímis því sem kaupendurnir fá eins lág laun og atvinnurekendurnir geta pressað þau niður - leiðir óhjákvæmilega af sér stöðnun og kreppu. Framleiðslan fer óhjákvæmilega fram úr kaupgetunni, markaðurinn getur ekki vaxið eins hratt og framleiðslan.

En ef spekingarnir í sjónvarpsþættinum hefðu komið auga á þessa einföldu staðreynd, væru þeir heldur ekki borgaralegir hagfræðingar. Því af þessari staðreynd leiðir, að auðvaldsþjóðfélagið er orsök kreppanna, atvinnuleysisins og verðbólgunnar og eina lækningin sem talist getur varanleg er að leggja auðvaldsþjóðfélagið í rúst og taka upp sósíalíska framleiðsluhætti, sem einkennast af sameigninni og samvinnunni. Það er þannig ekki auðvaldskreppan sem er hugarfarsleg - heldur er hugarfarslegt ástand borgaralegu spekinganna í kreppu!

Þráinn Eggertsson: "Verðbólgan er siðspillandi..."

Vafalítið hefur Þráinn útskrifast úr háskólahagfræðinni með prýði. En hann lét í ljós vonbrigði sín yfir, að raunveruleikinn skyldi ekki haga sér eins og kennslubækurnar sögðu fyrir um. En hvaða hugmyndir skyldi nýútskrifaður hagfræðingur gera sér um sjálfan sig og hagfræðiþekkingu sína, þegar hann neyðist til þess frammi fyrir alþjóð, að leiða hagfræðivandamálin hjá sér ? Það er aumkunarvert að horfa upp á "fjölmenntaða" hagfræðinga brosa aulalega út í loftið og fílósófera um siðferðilegar afleiðingar verðbólgunnar, þegar þeir eru spurðir um orsökina fyrir verðbólgu og leiðunum til að berjast gegn henni!

Ekki bætir heldur úr skák, þegar fullyrt er, að verðbólgan hafi stóra kosti - sem sé að vegna hennar geti allir Íslendingar búið í mjög góðu húsnæði! Sjálfsagt þarf Þráinn ekki að hafa áhyggjur af slíku, en venjulegur verkamaður, sem ætlar að byggja sér hús getur ekki hallað sér aftur í hægindastólnum og sagt, að verðbólgan sjái um húsbygginguna. Það sem Þráinn á við er, að verðbólgan sé svo hröð, að lán sem tekin séu rýrni það hratt að endurgreiðslan verði minni en upphaflega lánsupphæðin.

En þetta er bara flatur áróður, sem einföldustu sálir hljóta að sjá í gegn um. Því verðbólgan felur einmitt í sér lækkun launa miðað við vöruverð, eða hraðari hækkun vöruverðs en launa. Þess vegna verður verkamaður að vinna margfalt meira í dag en áður til að greiða af þeim lánum sem hann tók fyrir húsbygginguni. Þetta sannast af því, að yfir- og næturvinna hefur aukist gífurlega síðustu ár og að ómögulegt er að lifa af daglaunum verkamanns, hvað þá að leggja til hliðar af þeim fyrir húsbyggingu eða íbúðarkaupum. Verðbólgan leiðir þess vegna af sér aukinn þrældóm fyrir verkalýðinn og gerir honum íbúðarkaup ekki auðveldari að öðru leyti en því, að á verðbólgutímum er auðveldara að fá bankalán en annars.

Hins vegar var fróðlegt að heyra Þráinn útlista fyrirætlanir íhaldsstjórnarinnar. Hann glopraði því út úr sér, að tvær leiðir væru til: að lækka launin hratt og óvægið, en það hefði baráttu verkalýðsins í för með sér, eða að koma launalækkununum og kjaraskerðingunum á hægt og rólega í þeirri von að verkalýðurinn samþykkti þær í skömmtum. Þráinn viðurkenndi að hægristjórnin hefði valið síðari leiðina og kemur það heim og saman við þær kjaraskerðingar sem verið er að framkvæma við höfnina, í Áburðarverksmiðjunni og víðar, aðallega með því að lengja vinnudaginn og auka vinnuálagið gegn lítilli hækkun launa, sem ekki er einu sinni upp í þær vísitöluuppbætur sem íhaldsstjórnin stal af verkalýðnum.

Hvað sem segja má um hagfræðiþekkingu Þráins, verður þó að segja að hann sé meðvitaður um hlutverk borgaralegrar hagfræði og hagstjórnar - að auka arðránið á verkalýðnum og sætta hann við það með kjaftæði um þjóðarsamstöðu, og sameiginlegar byrðar, sem atvinnurekendur og verkalýður verða að axla til að bjarga þjóðarbúinu og atvinnuvegunum.

Framhald af baksíðu
EFNAHAGSHRUN...

um kemur kreppan nú fram í atvinnuleysi, styttingu vinnutíma og alhliða samdrætti. Fyrir skömmu styttu Fíatverksmiðjurnar á Ítalíu vinnutíma verkamanna úr 40 stundum niður í 24 stundir á viku og lækkuðu kaupið samsvarandi. Þannig mætti nefna mýmörg dæmi.

Kreppan kemur ekki aðeins fram í efnahagslífi og viðskiptum, heldur hefur hún áhrif á öll svið þjóðfélagsins. Félagslegur órói, andspyrna og uppreisnir gegn undirokurunum eru eðlilegir fylgifiskar hennar. Verkfallstíðni fer þannig yfirleitt hækkandi. Í Bandaríkjunum urðu þannig 3.240 verkföll á fyrri helmingi þessa árs með þátttöku 1.600.000 verkamanna, sem eru um 650.000 fleiri en á fyrra ári. Slíkt hið sama gerist í löndum Vestur-Evrópu og Japan. Öreigarnir eru að vakna til meðvitundar um að þeir eru öreigar og eiga engra hagsmuna að gæta í ríkjandi þjóðfélagskerfi, þeir hafi engu að tapa nema hlekkjunum.

-/MVS tók saman

# „KORPÓRATÍFRÍKIÐ" OG IMPERÍALISKI ÖKONOMISMINN

Lenín sagði eitt sinn, að höfuðspurningin fyrir nútíma sósíalisma, væri spurningin um hentistefnuna og samband hennar við heimsvaldastefnuna. Lenín sýndi fram á, að grundvöllur hentistefnunnar er mútukerfið, sem fjármálaauðvaldið hefur skapað, mútur, sem stafa frá hinum heimsvaldasinnaða aukagróða, sem skapast við arðrán nýlendnanna og sem fara til efsta lags verkalýðsstéttarinnar, verkalýðsaðalsins. Ennfremur benti hann á, að kenningar hentistefnunnar eru í ósamræmi við heimsskoðun verkalýðsstéttarinnar, eru í raun og veru borgaralegar kenningar, sem falsa, afskræma og þynna marxismann út. Lenín skilgreindi innihald og form hentistefnunnar, sem koma fram, ekki aðeins meðal rússneskra byltingarmanna, heldur einnig innan II. og III. Alþjóðasambandsins. Skiljanlega gat Lenín ekki skilgreint allar gerðir og birtingarform hentistefnunnar, því hentistefnan kemur ætíð fram við hlutstæð skilyrði og við hlutstæðar aðstæður, sem fölsun eða rangtúlkun hlutstæðra verkefna í stéttabaráttunni. En Lenín skilgreindi stéttarlegt innihald hentistefnunnar og heimspekilegan grundvöll hennar - vélrænu efnishyggjuna.

Imperíalíski ökónómisminn

Í baráttu sinni gegn hentistefnunni, sýndi Lenín fram á fræðilegan grundvöll hentistefnunnar og ennfremur, að hentistefnan birtist á margvíslegan máta, samkvæmt hlutstæðum skilyrðum og að birtingarform hennar eru því mismunandi í mismunandi löndum og á mismunandi tímaskeiðum. Í riti sínu "Skopmynd af marxismanum og imperíalíski ökónómisminn" segir hann:

> "Kapitalisminn hefur sigrað - þess vegna þurfum við ekki að ómaka okkur við lausn pólitískra vandamála, þannig rökræddu gömlu ökónómistarnir 1894-1901 og vísuðu pólitísku baráttunni í Rússlandi á bug.
>
> Imperíalisminn hefur sigrað - þess vegna þurfum við ekki að ómaka okkur við lausn vandamála hins pólitíska lýðræðis, þannig rökræða imperíalískir ökónómistar vorra daga." (Coll. Works, bd. 23, bls. )

Einmitt. Hentistefnan í vinstrihreyfingunni í Evrópu í dag, byggir einmitt á þessari skilgreiningu heimsvaldastefnunnar. Hægri útgáfan rökræðir: Einokunarkapitalisminn hefur sigrað - þar með hefur pólitíska lýðræðið tapað gildi sínu í mikilvægum atriðum og nauðsynlegt er að stofna breiða alþýðufylkingu til að berjast gegn einokuninni og fyrir lýðræðinu. Rússnesku endurskoðunarsinnarnir eru sem kunnugt er, talsmenn þessarar kenningar. Ennfremur kemur áþekk afstaða til einokunarinnar fram hjá SKP í Svíþjóð og AKPm-l í Noregi, en að auki telja þessir flokkar hluta kapitalistastéttarinnar vera bandamenn verkalýðsins í baráttunni gegn einokuninni. Skilgreiningar þessara flokka á "alþýðunni" felur í sér - hvort sem menn vilja eða ekki - að stéttamóthverfurnar verða óskýrar og hún kemur í veg fyrir að hægt sé að gera markvissa og skýra skilgreiningu á stjórnlistarlegum verkefnum byltingarinnar.

Vinstri útgáfan rökræðir: Einokunarauðvaldið hefur sigrað - þar með er pólitíska lýðræðið úr sögunni og í stað þess hefur annað hvort komið fasismi eða sósíalfasismi. Þar með hefur smáborgarastéttin einnig glatað byltingarsinnuðum eiginleikum sínum og er endanlega orðin varalið gagnbyltingarinnar. Þar með hefur verkalýðsstéttin endanlega glatað fjöldahreyfingum sínum í hendur borgaranna, verkamennirnir hafa tapað baráttunni um verkalýðsfélögin.

Tökum tvö dæmi úr hinni reynsluríku sögu Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna (bolsévíkanna) sem laut forystu Leníns og Stalíns. Þau varpa ljósi á tvo arma hins imperíalíska ökónómisma í beinu starfi og afstöðu þeirra til afgerandi vandamála stéttabaráttunnar. Annars vegar er trotskisminn, sem vildi "sneiða framhjá" verkalýðsfélögunum vegna vanþroska þeirra og afturhaldssamrar forystu og sem ekki vildi gera bandalag við fjölda smáeignarbænda í Rússlandi. Hins vegar er búkarínska hægrifrávikið, sem hélt því fram, að kapitalisminn (eða kúlakkarnir) yxu friðsamlega inn í sósíalismann og afneitaði hinum ósættanlegu hagsmunaárekstrum, sem eru á milli kapitalistastéttarinnar og verkalýðsstéttarinnar. Stalín snerist gegn þeim síðarnefndu í lok þriðja áratugsins, og sagði þá m.a.:

> "Í hverju felst mismunurinn á trotskismanum og hópi Búkaríns að því er varðar sambandið við bændurna? Hann felst í því, að trotskistarnir eru á móti þeirri pólitík sem felst í föstu bandalagi við allan þorra millibændanna, á meðan Búkarínhópurinn er meðmæltur hvers lags bandalagi við bændurna yfirleitt. Það þarf ekki að sanna, að báðar þessar afstöður eru rangar og önnur þeirra ekki meira verð en hin." (Vandamál Lenínismans, bls. 361 /sænsk útg.)

Nú, ætlunin var ekki að ræða bændavandamálið hér, heldur spurninguna um verkalýðsfélögin og kenninguna um að þau hafi vaxið inn í ríkisvaldið. Það reynist því nauðsynlegt að snúa sér fyrst og fremst að vinstri armi imperíalíska ökónómismans, sá hægri verður að bíða um sinn.

KFMLr er höfuðtalsmaður kenningarinnar um "korpóratífríkið" og um að verkalýðsfélögin séu samvaxin hinu borgaralega ríkisvaldi. En þessi kenning á sér einnig talsmenn innan KAm-l í Danmörku, en það er aðallega sem stuðningur við kenningar KFMLr.

Í hverju felast kenningarnar um "korpóratífa" ríkið?

KFMLr skilgreinir korpóratífríkið á eftirfarandi hátt: "Korpóratífríki er ríkisfyrirmynd, þar sem verkalýðsfélögin reyna að skapa sættir milli stéttanna og eru hluti af ríkinu." (F. Baude, Leve de vilda strejkerna, bls. 93).

Jafnvel þótt þessi stuttaralega skilgreining sé sótt úr orðaskýringum í bæklingi Baude, inniheldur hún þó kjarnann í kenningunni um korpóratífríkið, nefnilega að verkalýðsfélögin vaxi saman við ríkið. Í ítarlegri tilraun til að skilgreina inntak og grundvöll korpóratífríkisins, heldur Ö. Nyström því fram, í grein sinni "Fasismi og sósíalfasismi" (Klasskampen, fræðilegt málgagn KFMLr no. 3 '72), að orsakarinnar fyrir sköpun korpóratífríkisins á heimsmælikvarða, sé að leita í breytingu samkeppniskapitalisma yfir í einokunarkapitalisma. Hann heldur því fram, að á tímum heimsvaldastefnunnar komi fram ný tegund tvíþættrar taktíkur borgarastéttarinnar, sem felist í fasisma og sósíalfasisma, að lýðræðið hafi "tapað gildi sínu í mikilvægum atriðum" og að þar með hafi orðið til korpóratíft kerfi, sem tekið hafi við af hinu hefðbundna borgaralega lýðræðisríki. Því er þannig haldið fram, að þegar einokun taki við af samkeppni, þá sé lýðræðið samtímis leyst af hólmi af afturhaldi. Þetta er rétt að því marki, að einokunin afnemur ekki samkeppnina, á sama hátt og stóriðnaðurinn afnam ekki smáiðnaðinn fullkomlega. Einokunin þrífst við hlið og yfir samkeppniskapitalismanum og verður ráðandi vegna yfirburða sinna í skipulagi, samböndum, valdi yfir hráefni o.s.frv. Hið sama verður að segja um lýðræðið. Jafnvel þótt heimsvaldastefnan sækist eftir afturhaldi og kúgun "yfir alla línuna" afnemur hún engan veginn borgaralega lýðræðið eða þingræðið. Fasisminn á rætur sínar að rekja til þessarar sækni eftir pólitísku afturhaldi og er svar einokunarkapitalismans við byltingarsinnaðri fjöldabaráttu verkalýðsstéttarinnar. Fasisminn kemst ekki til valda alls staðar, lögmálsbundið eða í sérhverju byltingarástandi, valdataka hans ræðst af skipulagningu og samstöðu verkalýðsstéttarinnar, hvort henni hefur tekist að vinna smáborgarana til fylgis við byltinguna eða gera þá hlutlausa og loks af styrkleika borgarastéttarinnar. Samtímis því sem pólitísk kreppa vex fram og þrýstingurinn frá byltingarsinnuðum fjöldaaðgerðum verkalýðsstéttarinnar eykst, tekur borgaralega ríkisvaldið fasískri þróun, sem ekki nær einvörðungu til sjálfs ríkisvaldsins eða fasísku ofbeldisflokkanna, heldur einnig til allra borgaralegra stjórnmálaflokka. Þeirra á meðal er sósíaldemókratíið. Það ryður fasismanum braut, með því að sundra verkalýðsstéttinni og halda aftur af baráttu hennar og er þar með mikilvægur stuðningur við tilraunir borgarastéttarinnar að brjóta á bak aftur byltingarsinnaða baráttu verkalýðsins. Vegna þessa séreinkenna verður nafnið sósíalfasistar til, á tímum þegar fasisminn er að vaxa fram og svik sósíaldemókratísins við verkalýðsstéttina ryðja veginn fyrir fasismanum og er sundrungarafl í herbúðum verkalýðsins. En það myndi vera alrangt, að halda því fram að þar með væri "tímaskeið" fasismans og sósíalfasismans gengið í garð og að pólitíska lýðræðið væri útdautt, eins og KFMLr gerir. Pólitíska afturhaldið afnemur ekki borgaralega lýðræðið eða þingræðið alls staðar við tilkomu heimsvaldastigsins, heldur notar það þingræðið sem hjúp fyrir afturhaldssöm markmið sín. Þess vegna er baráttan fyrir lýðræðislegu réttindum er óhjákvæmilega hluti af byltingarbaráttu verkalýðsstéttarinnar. Lenín segir sjálfur, að "Pólitísk yfirbygging þessa nýja hagkerfis, einokunarkapitalismans, sé breyting frá lýðræði til pólitísks afturhalds. Lýðræðið samsvarar frjálsu samkeppninni, pólitískt afturhald samsvarar einokuninni." (Skopmynd af marxismanum...) Takið eftir að Lenín talar um breytinguna frá lýðræði til pólitísks afturhalds, sem pólitíska yfirbyggingu heimsvaldastigsins. Ef það síðarnefnda útilokaði hið fyrrnefnda, eins og kenningin um korpóratífríkið hlýtur að ganga út frá, þá væru heldur engar móthverfur til innan borgarastéttarinnar á pólitíska sviðinu.

En þessu er þvert á móti algerlega öfugt farið. Afturhaldið afnemur ekki lýðræðið, heldur myndast djúptæk móthverfa á milli borgaralega lýðræðisins og afturhaldsins (fasismans). Þegar ákvarða skal stjórnlist kommúnistanna, er geysilega mikilvægt að veita þessu mótsagnakennda eðli heimsvaldastigsins athygli. Ennfremur er þetta mótsagnakennda eðli heimsvaldastigsins hornsteinninn í kenninguna um heimsvaldastefnuna sem deyjandi kapitalisma, kapitalisma sem er staddur í hrörnun.

Sjálfur grundvöllur kenningarinnar um korpóratífríkið er þannig beinlínis rangur. Tilkomu heimsvaldastigsins fylgir ekki tilkoma tímaskeiðs fasismans og sósíalfasismans, heldur er heimsvaldastigið einungis almennur grundvöllur, sem fasisminn og sósíalfasisminn byggir á.

Kenningin um að verkalýðsfélögin vaxi inn í ríkið

KFMLr heldur því fram, að sósíaldemókratíið, yfirbygging verkalýðsstéttarinnar, sé komið á nýtt þróunarstig - sósíalfasismann. Þetta nýja þróunarstig einkennist af, að sósíaldemókratíið slíti tengsl sín við verkalýðsstéttina og vaxi saman við borgarastéttina og borgaralega ríkið. Þessi samvöxtur felur í sér, að verkalýðsfélögin taka endanlega afstöðu með borgarastéttinni og að verkalýðsstéttin sé endanlega svipt fjöldahreyfingum sínum. Verkalýðsfélögin verða í stað þessa, verkfæri kapitalistastéttarinnar til að brjóta á bak aftur byltingarsinnaða baráttu verkalýðsins. Byltingarsinnuð bardagaaðferð verkalýðsins breytist því á þann hátt, að verkamenn eru hvattir til að "setja verkalýðsfélögin til hliðar" og mynda í stað þeirra leynilega, ólöglega verkfallshreyfingu.

Þetta eru vissulega ekki nýjar hugmyndir. Að frátöldum þýsku "vinstri"-kommúnistunum áttu þær einnig forsvarsmann í röðum Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna (b) - hann hét Trotskí. Í bréfi til Pravda segir hann: "Gervöll 'yfirbygging' bresku verkalýðsstéttarinnar, af öllum gerðum og tegundum án undantekningar, er tæki til að hindra þróun byltingarinnar. Þetta mun til langframa valda þrýstingi hinnar sjálfsprottnu og hálfsjálfsprottnu hreyfingar á ramma gömlu félaganna og myndun nýrra, byltingarsinnaðra félaga, sem afleiðing af þessum þrýsting." (Pravda, no. 119, 1926)

J. Stalín svarar þessari kenningu Trotskís með eftirfarandi athugasemdum: "Af þessu verður að draga þá ályktun, að við ættum ekki að vinna innan 'gömlu' félaganna, ef við viljum ekki 'hindra' byltinguna. Annað hvort er hér átt við, að nú ríki tímaskeið beinnar byltingarþróunar (þ.e. í Englandi 1926/aths. kg) og að við ættum því að setja upp sjálfstýrð samtök öreiganna í stað hinna 'gömlu', í stað fagfélaganna - sem auðvitað er alrangt og heimskulegt. Eða þá að hér er átt við, að 'til langframa' ættum við að vinna að því að setja 'ný, byltingarsinnuð' félög í stað hinna gömlu fagfélaga. Þetta er ávarp um að skipuleggja, í stað fagfélaganna, sem til eru, sömu 'Byltingarfélög verkamanna' og "últra-vinstri" kommúnistar í Þýskalandi börðust fyrir, fyrir fimm árum, og sem félagi Lenín barðist harðlega gegn í bæklingi sínum "Vinstri róttækni - barnasjúkdómar kommúnismans". Þetta er raunverulega ávarp um að setja 'ný' og vísast 'byltingarsinnuð' félög í stað núverandi fagfélaga, og þar með ávarp um að fara út úr verkalýðsfélögunum. Er þessi pólitík rétt? Hún er grundvallarlega röng, vegna þess að hún er algerlega andstæð lenínísku aðferðinni við að leiða fjöldann." (Stalín, Works, bd. 8 bls. 186)

Ummæli eru næstum óþörf. Án verkalýðsfélaganna og annarra fjöldahreyfinga verkalýðsins, mun flokkurinn ekki geta byggt upp alræði öreiganna eða sósíalismann. Án þessara "aflbelta" eins og Stalín kallaði þau, milli flokks og fjölda, verður sósíalíska byltingin aldrei sigursæl. Kenningin um samvöxt verkalýðsfélaganna við borgaralega ríkið, ber þess vitni, að stuðningsmönnum hennar hefur ekki tekist að skilja á milli verkalýðsskriffinnanna, hins mútuþæga efsta lags verkalýðsins, og hinna venjulegu félaga, alls þorra verkamanna. Sameining ríkisins, "verkalýðsforystunnar" og samtaka atvinnurekenda getur verið mjög mikil, en það orsakar ekki samvöxt verkalýðsfélaganna sjálfra við ríkisvaldið. Slík skoðun ber aðeins með sér uppgjöf gagnvart þeim verkefnum kommúnistanna, að vinna fylgi verkalýðsfjöldans og leiða hann fram til baráttu gegn kapítalinu og handbendum þess innan verkalýðsstéttarinnar, hinu mútaða efsta lagi hennar. Það er þannig augljóst, að kenningarnar um samvöxt verkalýðsfélaganna við ríkið byggir ekki á marxismanum-lenínismanum. En hvaðan eru þá þessar kenningar runnar?

Hvaðan koma kenningarnar um korpóratífríkið?

KFMLr heldur því fram, að korpóratífríkið sé þróunarstig, fyrirbrigði sem birtist á alheimsmælikvarða. Í þingsályktunum frá III. þingi KFMLr segir svo: "Borgaralega lýðræðið hefur tapað gildi sínu í mikilvægum atriðum. Sænska sósíaldemókratíið hefur komið því til leiðar, á grundvelli hinnar tiltölulegu friðsömu og stöðugu þróunar sænska kapitalismans og með "friðsamlegum" aðferðum, sem borgarastéttir annarra landa neyddist til að koma til leiðar með aðstoð ofbeldis hins fasíska alræðis, á tímum kreppanna. Sósíaldemókratíið er orðið sósíalfasismi sem nýtur stuðnings verkalýðsfélagaskrifræðisins. Sósíaldemókratíið er höfuðfjandmaður verkalýðsstéttarinnar innan verkalýðshreyfingarinnar." (Bls. 76)

Þannig hefur alls staðar orðið til, með tilstuðlan korpóratífríkisins, fasismi eða sósíalfasismi, samhliða því sem "lýðræðið hefur tapað gildi sínu í mikilvægum atriðum." Ef þetta verður ekki með ofbeldi og hryllingi fasismans, þá framkvæmir sósíalfasisminn það með "friðsamlegum aðferðum." Enn segir svo: "... með hjálp sósíaldemókratísku svikaranna, hefur borgarastéttinni í Svíþjóð og öðrum kapitalískum löndum snúið þetta vopn (þ.e. verkalýðsfélögin/aths. kg) úr höndum verkalýðsstéttarinnar eftir langæja og harða baráttu, og breytt því í tæki til kúgunar á henni. Verkalýðsstéttin hefur beðið ósigur í baráttunni um gömlu verkalýðsfélagahreyfinguna." (Bls. 122)

Hér eru trotskísku þankagangarnir allsráðandi, grundvöllur marxismans-lenínismans er yfirgefinn en smáborgaraleg afstaða kemur í hans stað. Skilgreining Kominterns á fasismanum við völd tekur til þess, að hér sé ekki aðeins um venjuleg stjórnarskipti að ræða, heldur að ein gerð borgaralega ríkisins - borgaralega lýðræðið - sé leyst af hólmi af annarri - hinu opinskáa, ofbeldissinnaða alræði (Dimitrof). Komintern skilgreinir fasismann sem ofbeldisstjórn, sem afturhaldssamasti og blóðþyrstasti hluti einokunarauðvaldsins standi að, sem svar við byltingarbaráttu verkalýðsstéttarinnar. Ofbeldisstjórn fasismans beinist fyrst og fremst gegn framverði verkalýðsins, kommúnistaflokknum og gegn baráttufúsum verkamönnum, samtímis sem hún undirbýr yfirgang og ránsstríð gagnvart öðrum þjóðum. Lýðræðið er algerlega lagt í rústir og samtakaréttur verkalýðsstéttarinnar er enginn, og þetta á einnig við um fagleg samtök. Berið þetta saman við skilgreiningu KFMLr: "samvöxtur verkalýðsfélaganna og ríkisins og stöðugur borgarafriður milli auðvalds og launavinnu" og þá sést greinilega hversu geysilegur munur er á skilgreiningu Kominterns og þeirri, sem KFMLr hefur búið til. En hvaðan hefur þá KFMLr sína skilgreining, ef hún á ekki rætur sínar að rekja til marxismans-lenínismans? Jú - heyr á endemi - frá Mússólíni, frammámanni ítölsku fasistanna..

Frank Baude, form. miðstjórnar KFMLr, vitnar í Mússólíni í bæklingi sínum "Leve de vilda strejkerna": "En byltingarsinnaðasta lagasetning okkar, lög sem munu öðlast sess í sögunni, er lagasetningin um ögun heildarsamninganna. Með þessum lögum hefur hið lýðræðislega frjálshyggjuríki, sem í verkalýðsfélagavandamálinu sagði hvorki af né á, verið afnumið. Við höfum skapað hið korpóratífa ríki... Það er og mun ætíð verða einn helsti kostur fasísku byltingarinnar, að hún hefur barist við og sigrast á þessu sársaukafyllsta vandamáli þjóðfélagsins. (Mússólíni í ræðu 1926)"

Það er ekki ósamboðið marxistum að draga lærdóma af ógnarveldi fasismans eða skilgreina þjóðfélagslegar rætur fasismans og fasísku lýðskrumshugmyndanna. En það er algerlega ósamboðið marxistum, að - samtímis því, sem lýst er yfir, að afstaða Leníns og Stalíns til starfsins innan verkalýðsfélaganna sé úrelt og ógild í dag, vegna "nýs þróunarstigs" og "breyttra skilyrða" fyrir starfssvið verkalýðsfélaganna, - lýsa því yfir, að lýðskrum og lygar Mússólínis um fasismann haldi enn gildi sínu og sé skilgreining sem byggja megi faglega taktík kommúnista á! Hvílíkur barnaskapur. Hvenær varð Mússólíni sá hugmyndafræðingur, sem marxistar gátu byggt skilgreiningar sínar á?. Þessi einfeldnisháttur, að líta á lýðskrum Mússólínis sem alhliða skilgreiningu á fasismanum, leiðir til alvarlegrar niðurlægingar marxismans-lenínismans. Getur það átt sér stað, að einvörðungu sé átt við faglegu baráttuna, þegar vitnað er í Mússólíni og að hann hafi af tilviljun haft á réttu að standa? Nei, þannig er því greinilega ekki farið. Í bæklingi Baudes stendur eftirfarandi: "Sósíaldemókratíið hefur þróast frá frjálslyndri umbótapólitík í anda Brantings í upphafi 20. aldarinnar, til hinnar opinskáu stéttasamvinnupólitíkur millistríðsáranna, uns í dag er hún hefur orðið að sósíalfasískri, korpóratífri pólitík að fyrirmynd Mússólínis frá hinni fasísku Ítalíu. Þessi pólitík byggir eins og ítalski fasisminn á afnámi verkfallsréttarins (!) og launaáætlun fyrir allan iðnaðinn (!) sem ríkiseftirlit er með." (Bls. 36/aths. kg)

Annaðhvort á Baude við að ítalski fasisminn hafi takmarkað sig við að afnema verkfallsréttinn og ríkisskipuleggja launaáætlanir iðnaðarins, eða að Svíþjóð sé fasískt ríki í dag ("að fyrirmynd ítalska fasismans").

Í báðum dæmunum er um alvarleg mistök að ræða. Ef við tökum hið fyrra, sést strax að hér er skilgreining, sem ekki er samboðin marxista, heldur vitnar um faglega þröngsýni og þekkingarleysi á eðli fasismans. Ef við tökum hið síðara, ber Baude enn skarðan hlut frá borði, því í Svíþjóð þrífst borgaralegt lýðræði og það væri alvarleg ranghugmynd, að rugla saman óhjákvæmilegu kúgunareðli og þröngum stakki hins borgaralega lýðræðis við opinskátt ofbeldissinnað borgaralegt alræði í gervi fasismans.

Hvora vitleysuna á að velja skiptir ekki máli. En í þessu liggja orsakirnar fyrir hinni röngu afstöðu til faglega vandamálsins, sem felst í því að "setja verkalýðsfélögin til hliðar." Sú ringulreið sem ríkir í faglega vandamálinu innan KFMLr, stafar af því að grundvöllurinn að kenningunni um korpóratífríkið hefur ekki verið rannsakaður og gagnrýnin rannsókn á kenningum og starfi Kominterns í verkalýðsfélagahreyfingunni í Evrópu á fjórða áratugnum hefur verið látin liggja milli hluta. Af því verður sú óvissa sem ráðandi er innan KFMLr og kemur fram þannig, að komið hefur verið auga á einhliðleika þeirrar bardagaaðferðar sem felst í vígorðinu "lifi skæruverkföllin," en ennþá ekki fundin skýr skilgreining á réttri bardagaaðferð. Uppi eru raddir í KFMLr sem spyrja, hvort mögulegt sé að skapa rauð og byltingarsinnuð verkalýðsfélög, hvort heldur hætti að mynda rauð andstöðulið innan núverandi verkalýðsfélaga, eða starfa samkvæmt hinni einhliða bardagaaðferð skæruverkfallanna, eða hvort láta skuli framtíðina skera úr um hvað af þessu er rétt.

Eina rétta bardagaaðferðin er að byggja upp rauð andstöðulið innan núverandi verkalýðsfélaga og miða að því að vinna verkalýðsfélögin í kapitalísku löndunum fyrir málstað kommúnismans, með því að vinna allan þorra verkamanna til fylgis við bardagaaðferð kommúnistanna og með því að afhjúpa og reka út sósíaldemókratísku svikarana. Þessi bardagaaðferð er ekki rétt einvörðungu fyrir það að hún stenst sem kenning, heldur fyrst og fremst vegna þess, að hún er þrautreynd í byltingarbaráttu margra áratuga.

-/kg

# Hver er hinn nýji varaforseti USA?



## -Mútur

Eftir þau ár sem Nixon og Agnew hafa dvalið í Hvíta húsinu hefur það orðið næstum því sjálfsagður hlutur að hægt sé að múta forsetanum og varaforsetanum. En varla er hægt að múta nýja varaforsetanum, Nelson Rockefeller þiggur engar mútur, hann veitir þær.

Hann er einn af ríkustu mönnum heimsins. Hann og bræður hans reka Rockefeller-heimsveldið, sem inniheldur m.a. fyrirtæki eins og Standard Oil, með ársgróða uppá 2,2 milljarði dollara að loknum skattgreiðslum, og sem hefur olíuvinnslu í 14 löndum (m.a. Víetnam) og hefur 300 dótturfyrirtæki sem annast sölustörf í flestum löndum heimsins. Auk þess stjórnar Rockefeller mörgum öðrum olíufélögum. Einnig eiga bræðurnir Chase Manhattan Bank, sem er þriðji stærsti banki Bandaríkjanna. Auk þess eiga þeir fyrirtæki í vopnaiðnaðinum, flugfélög og kjörbúðahringi, sem ná yfir gjörvalla S-Ameríku. Alls ráða bræðurnir yfir auðæfum sem nema um 900 milljörðum íslenskra króna. Ef gengið hækkar í Wall Street geta bræðurnir grætt meira á nokkrum dögum, en Krupp og Onassis nurla saman á mannsaldri.

## Forseti til sölu

Enginn verður ríkur, enginn verður margmilljóneri með því eingöngu að fást við það sem kallað er fjármál. Og umfram allt, enginn getur haldið og aukið slík auðæfi án þess að fara út í pólitíkina. Það er lífsspursmál fyrir kapitalista allra landa án undantekningar að stjórna ríkisstjórnunum og embættismönnum. John D. Rockefeller kom fljótt auga á þetta. Þannig keypti hann sér sinn eigin forseta árið 1896. Eftir dýrustu kosningabaráttu fram að þeim tíma í sögu Bandaríkjanna varð William McKinley forseti fyrir peninga Standard Oil. Þeir peningar borguðu sig fljótt til baka gegnum samning við stjórnina og ríkið, um að þjóna hagsmunum Standard Oil með þvingunaraðgerðum í garð landa S-Ameríku.

Nelson Rockefeller hefur sérhæft sig í því að þjóna hagsmunum fyrirtækja sinna í gegnum stjórnmálaafskipti. Hann hefur tryggt tengslin við ríkisstjórnir og þing og mútað stjórnmálamönnum. Hann hefur náð góðum árangri. Þrír utanríkisráðherrar eftirstríðsáranna hafa komið beint úr sérfræðingahópi Nelsons.

## Utanríkisráðherrar Rockefellers

Fyrsti slíkur var John Foster Dulles. Þegar hann varð utanríkisráðherra Eisenhowers árið 1953 óskaði Nelson honum til hamingju með svohljóðandi orðum: "Að þér séuð orðnir utanríkisráðherra er mér álíka fagnaðarefni og að Eisenhower er orðinn forseti". Raunverulega var Nelson Rockefeller að óska sjálfum sér til hamingju. Dulles hafði fyrst verið lögfræðingur Rockefellers, síðan stjórnarmeðlimur Standard Oil, og þar á eftir yfirmaður utanríkismála og formaður í Rockefellerstofnuninni. Eftirmaður Dulles í Rockefellerstofnuninni var Dean Rusk. Hann sagði upp störfum þar til að taka við störfum utanríkisráðherra, fyrst hjá Kennedy, síðan hjá Johnson. Það var í tíð Dean Rusk sem Bandaríkin hófu hernaðaríhlutun sína í Víetnam.

Sá maður sem öðrum fremur orsakaði þá þróun heitir Henry Kissinger, prófessor við Harvard. Hann gaf árið 1957 út bókina "Kjarnorkuvopn og utanríkispólitík." Þar setti hann fram kenninguna um "staðbundið stríð." Staðbundið stríð þýddi minni áhættu, en meiri slægvisku í baráttunni gegn Sovétríkjunum og "heimskommúnismanum." Víetnam, Dominikanska lýðveldið og Miðausturlönd, eru allt dæmi um staðbundið stríð.

Ef Kissinger hefði bara verið venjulegur Harvard-prófessor hefðu hugmyndir hans sennilega ekki haft neina þýðingu fyrir þróunina. En útgefendur bókar hans var Council of Foreign Relations (Utanríkismálaráðið), CFR. Í þessu ráði sátu, fyrir utan Kissinger, menn eins og James McCloy bankastjóri Chase Manhattan Bank, David Rockefeller og bróðir Dulles utanríkisráðherra, Alen W. Dulles. Ráðið sem var stofnað 1953 var algjör einkastofnun leiðandi fjármálahringa, með Rockefellerhópinn í fararbroddi. Hlutverk þess var að hafa áhrif á stefnu stjórnarinnar.

1956-58 var Kissinger auk þess forstjóri í Rockefellerstofnuninni, og var eftir 1960 einn nánasti samstarfsmaður Rockefellers. Þegar Nixon varð forseti 1968 sendi Rockefeller Kissinger í Hvíta húsið.

## CIA og Rockefeller

Einn meðlimur utanríkismálaráðsins var, eins og fyrr segir, Alen W. Dulles. Sem stjórnandi CIA á árunum 1953-61 hafði hann alla möguleika á að færa út línu Rockefellers í heimspólitíkinni. Lítum á nokkur afrek CIA meðan Dulles stjórnaði.

1953 var forsætisráðherra Íran, Mossadeq, steypt af stóli eftir að hann hafði þjóðnýtt olíuiðnað landsins. Olían komst aftur í hendur heimsaldasinnanna.

1955 og næstu ár á eftir: CIA setur Diem sem einræðisherra í S-Víetnam og byggir upp lögreglu- og herstjórnarkerfi landsins. Tryggðir eru hagsmunir Standard Oil varðandi olíuvinnslu á víetnömsku landssvæði.

1961 er forseti hins ný sjálfstæða Kongó, Patrice Lumumba, myrtur af útsendurum CIA, til að reyna að koma í veg fyrir að eigur bandarísku einokunarauðhringanna séu þjóðnýttar.

En Rockefeller hefur ekki látið við það sitja að hafa áhrif í gegnum leppa sína. Þegar það hefur verið nauðsynlegt hefur hann sjálfur gripið inn í.

Frá og með 1940 var hann ráðgjafi Roosevelts í málefnum latnesku Ameríku, í forsetatíð Trumans var hann sérfræðilegur ráðunautur í málefnum vanþróuðu landanna. Þessar stöður hafa gefið honum möguleika á að styrkja veldi sitt í S-Ameríku. Hann á í dag kjörbúðakeðju, sem nær um öll lönd latnesku Ameríku, og auk þess á hann jarðeignir þar og olíulindir. Rockefeller er í dag hataðasta nafn í allri S-Ameríku. Meðal verkamanna, bænda, smáborgara og þjóðlegra borgara er nafn hans tengt blóði, ofbeldi, afturhaldi, hernaðareinræði og þjóðlegri niðurlægingu.

Þetta er maðurinn sem nú tekur sæti í Hvíta húsinu. Miskunnarlaus morðingi. Maður, sem hefur fórnað lífi þúsunda manna um heim allan til að auka efnahagslegt og pólitískt veldi Rockefellersfjölskyldunnar, og heldur í dag tugum þúsunda verkamanna og bænda undir kúgunarhæl sínum. Dæmigerður heimsvaldasinni. Dæmigerður varaforseti Bandaríkjanna. Það er hann sem jafnt Morgunblaðið og Þjóðviljinn kalla "frjálslyndan stjórnmálamann." -/ÓI

## 16%... FRAMHALD AF FORSÍÐU

t.d. er Eðvarð Sig. þingmaður AB, Guðmundur J. er varaborgarfulltrúi fyrir AB. Þess vegna stendur líka Alþýðubandalagsforystan að baki Dagsbrúnarforystunni og við hlið kapitalistanna, þegar laun verkamannanna eru lækkuð og vinnuaðstaða þeirra skert á höfninni. Þjóðviljinn hafði viðtal við verkamann af höfninni þegar baráttan gegn samningunum stóð sem hæst og var hann á móti þeim eins og langflestir verkamenn þar eru. Sama dag kom Eðvarð Sig. stormandi upp á ritstjórn Þjóðviljans og spurði hvort verið væri að reyna að grafa undan fylgi hans í Dagsbrún og heimtaði að nýtt viðtal yrði tekið, þar sem sjónarmið Dagsbrúnarforystunnar kæmu fram. Daginn eftir var svo birt viðtal við Pétur nokkurn, sem hefur þann starfa að skrifa niður vinnutíma verkamannanna og er hann sjálfur ekki lengur verkamaður heldur þjónustumaður Eimskips. Að sjálfsögðu var hann fylgjandi samningunum og taldi þá góða. Það er einkennandi að Þjóðviljinn skyldi ekki hafa talað við lestarverkamenn, því ákvæðin í samningunum (fækkun í gengjum, leyfi verkstjóra til að færa verkamenn úr gengjum í önnur störf o.s.frv.) bitnaði fyrst og fremst á þeim sem vinna í lest. Líklega hafa þeir ekki fundið nokkurn mann í lest, sem vildi hrósa samningunum sem flokksbræður Þjóðviljamanna í Dagsbrúnarforystunni höfðu komið í gegn fyrir Eimskipafélagskapitalistana! Alþýðubandalagið hefur sýnt sitt rétta eðli, sem borgaralegur verkalýðsflokkur, með því að styðja kapitalistana í launalækkunarherferð þeirra.

Verkamenn! Varist sundrungarstarfsemi AB-forystunnar og verkalýðsfélagaforystunnar! Fylkið ykkur um Kommúnistasamtökin! ns

## FRAMHALD AF FORSÍÐU
# EFNAHAGSHRUN...

Tvær af aðaliðnaðargreinum auðvaldslandanna, bifreiða- og byggingaiðnaður eiga í alvarlegum erfiðleikum. Bifreiðasala á fyrsta ársfjórðungi 1974 er talin vera um 30% minni en á sama tímabili í fyrra. Sökum þessa hafa mörg lönd orðið að draga saman seglin í bifreiðaframleiðslu. Þannig framleiddi General Motors, stærst bandarískra bílafyrirtækja, að minnsta kosti 38% færri bíla fyrstu sex mánuði þessa árs en áður. Sömu söguna er að segja í byggingaiðnaðinum. Vegna söluerfiðleika eru kapitalistarnir þvingaðir til að minnka mjög magn húsbygginga. Þessi þróun hófst í Bandaríkjunum fyrir rúmu hálfu ári. Þar varð afturförin um 60% frá því á árinu áður. U.S. News and World Report viðurkenndi í septemberhefti sínu, að bandarískur byggingaiðnaður "væri á leið inn í sína verstu kreppu allt frá hruninu mikla." Vegna þessa afturkipps hefur hrájárnsframleiðslan sömuleiðis minnkað um 1,4% frá fyrra ári.

## Geysileg aukning atvinnuleysis

Fleiri og fleiri fyrirtæki auðvaldslandanna hafa verið þvinguð til að loka undanfarið vegna þrýstingsins frá skýjahlaupi verðbólgunnar og samdráttar framleiðslunnar. Tölfræðilegar skýrslur sýna, að 5.180 fyrirtæki fóru á hausinn í Bandaríkjunum á fyrri helmingi ársins, 6% aukning frá 1973. Í Japan eru skráð um 5.500 gjaldþrot frá janúar til júní þessa árs, 60% aukning frá því á fyrra ári. Hvert á fætur öðru hafa mikilvæg fyrirtæki og bankar lokað í Þýskalandi, Bretlandi og fleiri löndum. Tölfræðiskrifstofa Vestur-Þýskalands hefur m.a. lýst 1974 sem "ári gjaldþrotanna." Mistök í viðskiptum og verslun hafa einnig hent nokkur stórfyrirtæki og valdið miklum ótta meðal einokunarauðhringanna.

Vegna þessara aðstæðna hafa einokunarhringirnir sagt upp fjölda verkafólks, til að reyna að losna við eigin byrðar.

Það hefur á örskömmum tíma stóraukið tölu atvinnulausra í auðvaldslöndunum. Samkvæmt opinberum skýrslum jókst atvinnuleysið í Bandaríkjunum um 5,8% í september. Gengu þá 5,3 milljónir verkamanna atvinnulausir og hafði þeim fjölgað um 440.000 frá því í ágúst. Í Bretlandi var tala atvinnulausra 690.000 í ágúst, 15% aukning frá því í júlí og mesta aukning á einum mánuði frá lokum seinni heimsstyrjaldarinnar. Tala vestur-þýskra atvinnuleysingja hefur stöðugt aukist á árinu. Í september voru þeir um 557.000.

## Órói á peninga- og gjaldeyrismarkaði

Hin stöðuga úrkynjun fjármála- og efnahagslífs heimskapitalismans hefur óhjákvæmilega valdið óróa á gjaldeyris- og peningamarkaðinum. Til að hressa við viðskipti sín og efnahag hafa kapitalistarnir, sérstaklega í stærstu auðvaldslöndunum, stórbætt við eignir sínar og fyrirtæki, hlaðið upp auðmagni í stærri stíl en áður. Vegna þessa hafa þeir orðið að taka geysileg lán, og bæði opinberar- sem einkaskuldir þeirra nema nú himinháum fjárhæðum. Samkeppnin og leitin að hámarksgróða hefur leitt þá út fyrir öll skynsamleg takmörk í aukinni fjárfestingu.

Frá byrjun þessa árs hafa auðhringar nokkurra auðvaldslanda orðið í ríkari mæli en áður, að taka lán hjá erlendum bönkum til að mæta miklum halla á greiðslujöfnuði. Við það hefur ástandið enn versnað, vandamálið þanist út og orðið enn óviðráðanlegra. Skipulagsleysið í framleiðslunni og hrun hennar kemur þannig fram á peningamarkaðinum í óreiðu, himinháum skuldum fyrirtækja og gjaldeyrisstríði.

## Engin gagnráð duga

Allt þetta og margt fleira hefur skerpt móthverfurnar innan auðvaldsskipulagsins og gert hina pólitísku og félagslegu kreppu dýpri.

Ráðandi hópar í auðvaldslöndunum eru bundnir á tveimur vígstöðvum, þegar þeir reyna að hamla gegn kreppunni. Önnur aðferð þeirra, að hressa upp á framleiðsluna með verðbólguhvetjandi ráðum verður eingöngu til þess að verbólgunni er algjörlega gefinn laus taumurinn með augljósum afleiðingum. Hin aðferðin, að minnka verðbólguna með ýmiss konar höftum, leiðir óhjákvæmilega af sér dýpkun hinnar efnahagslegu kreppu.

Til að vinna gegn verðbólguþróuninni hafa mörg lönd gripið til svokallaðra innanlandsáætlana um niðurskurð útgjalda og sparnað. Slíkar takmarkaðar aðgerðir hafa algjörlega misst marks og í mörgum tilvikum jafnvel stuðlað að enn alvarlegri stöðnun og afturkipp. Þar að auki eru fá tækifæri fyrir auðvaldslöndin að varpa byrðum sínu yfir á önnur lönd, þar sem þau eiga öll í svipuðum erfiðleikum. Í dag reynir hver sem framast getur að minnka innflutning og auka útflutning. Slíkar ráðstafanir hafa enn aukið á óróann og deilurnar í samskiptum auðvaldsríkjanna. Bandaríska tímaritið Newsweek segir 8. júlí síðastliðinn, að aðgerðir í þá átt að skera niður innflutning en auka útflutning hafi í för með sér stórhættu: "Möguleikann á morðóðu verslunarstríði sem á endanum leiði til efnahagshruns á heimsmælikvarða."

## Allsherjarkreppa framundan

Af framansögðu má ljóst vera, að það er ekki aðeins áróður kommúnista, að auðvaldsheimurinn rambi nú á barmi allsherjarkreppu, sem komi til með að ná til allra þátta efnahagslífsins í öllum kapitalískum löndum. Staðreyndirnar blasa við okkur og reyni hver að neita þeim, sem treystir sér til.

Það eru ekki aðeins íslenskir verkamenn sem reyna versnandi lífskjör í dag, heldur allir arðrændir öreigar. Og stéttarvitund þeirra mun vakna, og er þegar á mörgum stöðum vöknuð þegar kapitalisminn sýnir sig eins og hann getur verstur og ómannlegastur orðið. Verkamenn, þið hafið vinnu í dag, en munuð þið hafa vinnu á morgun? Þið getið haft ofan í ykkur og á með gegndarlausri yfirvinnuþrælkun, en er víst að yfirvinnan verði fyrir hendi á morgun? Hvarvetna í heimin-

FRAMHALD Á BLS. 10

## FRAMHALD AF FORSÍÐU
# VERKFALL...

an meðal verkalýðsins með kjaraskerðingarnar að undanförnu er mikil - og að hlutar verkalýðsins eru tilbúnir að taka málin í eigin hendur og hunsa þá foringja í verkalýðsfélögunum, sem hafa tekið sér stöðu þeim megin víglínunnar sem auðvaldið stendur.

Gangur þessa verkfalls sýndi, á sama hátt og það sýndi sig í baráttunni gegn Eimskipasamningunum, að það eru sundrungar- og undirróðurstilraunir Dagsbrúnarforystunnar, sem er hættulegasti óvinurinn. Það að verkamenn skyldu kasta Halldóri Björnssyni út og neita að hafa fulltrúa Dagsbrúnarforystunnar á fyrsta fundinum sýnir, að það verður alltaf fleiri og fleiri verkamönnum ljóst, hverra erinda Eðvarð og Co. ganga.

Veikleikar þessa verkfalls voru: undirbúningurinn var ekki nægur, t.d. var ekki haft samband við fragtskipamennina fyrr en daginn fyrir verkfallið - þótt kröfurnar hefðu verið settar fram töluvert áður. Margir verkamannanna voru ekki þátttakendur í baráttunni - sumir mættu jafnvel ekki á fundina þar sem málin voru ráðin. Það að samninganefnd skyldi vera kosin meðal verkamannanna sjálfra verður að teljast eitt það jákvæðasta við baráttuna - en það er einnig ljóst að í nefndina voru kosnir bæði þeir hörðustu og einnig menn, sem ekki voru nægilega harðir. Ennfremur verður það að teljast veikleiki að umboð nefndarinnar var ekki nægilega skýrt, hún fór á fund VSÍ um kvöldið og einangraðist að vissu marki frá verkamönnunum.

Enn einn veikleikinn, og hann á ekki síður við um aðra baráttu, sem hefur átt sér stað að undanförnu við Reykjavíkurhöfn, er sá, að ekkert samráð var haft við aðra verkamannahópa - t.d. hjá Eimskip, Ríkisskip o.fl. Samfylking verkamannanna við höfnina verður sífellt augljósari nauðsyn - aðeins skipulagning verkamannanna sjálfra getur komið í gegn þeirra eiging kröfum og varist áhlaupum "foringjanna" í stjórn Dagsbrúnar.

Félagar verkamenn! Það er þó ekki nóg að gera sér grein fyrir því að Dagsbrúnarforystan hefur svikið okkur, eða að baráttan er ekki gegn einstaka atvinnurekanda. Verkfallið hjá Togaraafgreiðslunni mætti ekki eingöngu einum atvinnurekanda, heldur öllu VSÍ sem er fulltrúi gjörvallrar íslensku borgarastéttarinnar. Það sýndi sig að auðvaldið sneri bökum saman gegn verkamönnunum og að Dagsbrúnarforystan tók pólitíska afstöðu með auðvaldinu.

Við eigum ekki í höggi við einstaka kapitalista, heldur gjörvalla borgarastéttina og ríkisvald hennar. Kjarabaráttan mun aldrei færa okkur sigurinn - til að sigra verðum við að skipuleggja okkur pólitískt.

Félagar verkamenn! Takið þátt í starfinu fyrir uppbyggingu kommúnísks flokks - fylkið ykkur um KSML. -/hh

Guðmundur J. Guðmunds
Nóatúni 26
R.

Reitur til áskriftarmerkingar.

ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST! LIFI MARXISMINN-LENINISMINN-HUGSUN MAOS TSE TUNGS!
Stéttabaráttan

Að þessu sinni er blaðið 12 síður. Ritstjórn ákvað að gefa 11. og 12. tbl. saman til þess að hafa nægan sölutíma fyrir þetta eintak, þ.e. að blaðið sé í sölu í fullan mánuð. Verð blaðsins er óbreytt - en ætlun samtakanna er sú að auka söluna það mikið að hún nái að greiða kostnaðinn við þetta blað, sem skiljanlega er töluvert hærri en þegar færri síður eru.

Venjuleg áskrift: kr. 400,oo.
Stuðningsáskrift: kr. 600,oo.
Baráttuáskrift: kr. 800,oo.

Frá RVK-deildarstj. KSML.
Því miður verður ekki unnt að sýna Móðurina á næstunni. Hún hefur ekki fengist, en verður auglýst síðar.

## FRAMHALD AF FORSÍÐU
# VINNUSLYS...

Verkstjórar fyrirtækisins stefna verkamönnum í lífshættu, með því að senda þá niður í kjallara til að stöðva kerleka, án alls öryggisútbúnaðar. Á öllum sviðum eru framleiðslutækin og hámarksgróðinn látinn sitja í fyrirrúmi.

## Öryggisfundir

Haldnir eru tíðir fundir með verkamönnum og þeim kennt að fara með hinar ólíku tegundir slökkvitækja, til að hægt sé að slökkva í vinnuvélum og bjarga þannig verðmætum fyrirtækisins frá tjóni. Slökkvilið fyrirtækisins er velþjálfað og viðurkennt, en öðru máli gegnir um slysavarnir, þar sem hver króna er skorin við nögl. Sem dæmi má nefna að sjúkrabílstjórar Íslenska Álfélagsins hafa fengið 3 tíma námskeið í meðferð sjúkra á fimm ára tímabili. Kunnátta þeirra kom greinilega í ljós, er slys varð í kerjaskála og sjúkrabíll var sóttur, en illa gekk að handleika gripinn, þar sem vankunnátta og æfingarleysi einkenndi öll þeirra störf.

## Augljóst dæmi

Við áltöku í kerjaskála hefur oft borið á því að í deiglum þeim sem notaðar eru við að ná álinu upp úr kerjunum hafa myndast sprengingar, sem geta haft hinar hryllilegustu afleiðingar í för með sér. Við nánari athugun hefur komið í ljós að orsakir sprenginganna er raki sem myndast í deiglunum er þær standa ónotaðar, ásamt því sem raki í loftinu er önnur aðalorsök. Auðvelt er að koma í veg fyrir þessa slysahættu með því að hita upp deiglurnar fyrir notkun. Að sjálfsögðu er þetta kostnaðarsamt, og þess vegna hefur atvinnurekandanum þótt heppilegra að segja mönnum að passa sig og fara varlega í stað þess útiloka slysahættuna með því að hita deiglurnar. Það er sama hvert er litið, hámarksgróðinn situr alls staðar í fyrirrúmi og hagsmunir fyrirtækisins eru metnir meira en mannslífin.

## Afnemum auðvaldsskipulagið

Félagar verkamenn í Straumsvík! Markmið okkar getur ekki verið dægurbaráttan. Krónutöluhækkun er lítils virði þegar atvinnurekendur og ríkisvaldið leggjast á eitt með að velta vaxandi kreppur á herðar okkar, með hækkandi vöruverði, vísitölubindingu og ýmis konar skattatilfærslum. Baráttan stendur um framleiðslutækin og þau verðmæti sem með þeim eru sköpuð. Á meðan verkamaðurinn er launaþræll auðvaldsins og til þess eins að skapa þann hámarksgróða, sem í vasa kapitalistanna rennur, er ekki að vænta þess að hagsmunir okkar séu virtir. Þess vegna hlýtur höfuðmarkmið okkar að vera að vinna framleiðslutækin úr höndum kapitalistanna og skipuleggja framleiðsluna eftir þörfum heildarinnar. Eina leið okkar er að skipuleggja okkur til baráttu fyrir því þjóðskipulagi er metur hagsmuni fjöldans fram yfir tímabundinn hámarksgróða auðvaldsins.

Verkamenn! Gerum okkur meðvitaða um stöðu okkar í þjóðfélaginu, skipuleggjum okkur á grundvelli marxismans-lenínismans og veltum af okkur oki launaþrældóms auðvaldsins!

-/Straumsvíkursella KSML